Þegar þér, hardgédja mañeskjur! vægdarlaust medhøndlid hinn saklausa, vid hvert tárid, sem þér pressid út af hans augum, vid hvert mein, sem þér gjörid honum, vid hvert eitt spottyrdi, þér hædid hañ med, rennid þaunkunum til Jesúm og hugleidid: ad þér í ydar saklausu brædrum hafid fordum misþyrmt ydar Frelsara, og fáid þér vid þessa hugleidingu eñ þá afram haldid í hardhdgi og miskunarleysi? Lát oss aldrei gleyma, o Jesú! þeirri vanvyrdu, sem þú máttir lída! þánkinn um hana aptri oss frá því ad syndga, og géfi oss hugar-mód til ad lída þær hádúngar þolgódir, sem oss kuña ad høndum bera. Ecki skal þad undra oss, þó vér þola megum hádyrdi fyrir vidurkéñingu þíns lærdóms, þó vér mæta megum forakti af heiminum fyrir þad, ad vér eptirfylgjum þér; þó ad vér í heimsins augum haldnir verdum fáráдlíngar, sem ecki þecki heimiñ, og kuñi ecki eptir aldar-mód ad lifa, viljum vér una því þolinmódir, og hvørki med valdi né brøgdum láta oss draga frá þér. Þá endiriñ kémur mun þad þó loksins sjást, hvert sá hædandi edur hiñ hæddi, hvert Krists krossélskari, edur hans óvinur, vard farsælli.

# 14. Föstu-Hugvekja.

Pèturs fall, Mark. 14.

Nú kom þad fram, sem Jesús hafdi fyrirsagt Pètri um fall hans. Af hans dæmi má siá, hvar fá lendir, sem stofnar sèr viljandi í þær hættar og freistingar, sem hañ er ofveikur til ad sigra. Ef dæma skyldi um Pètur eptir hans karlmeñsku heityrdum fyrifram, var þvi varla trúandi ad sýnileg daudans hætta hefdi hrædt hañ; en hèr þarf mikla miña til ad taka úr hönum allañ dug. Sjáum! Þessi Lærisveiñ, er ádur var svo hugadur, hañ, sem eiñ vildi berjast vid heilañ flock vopnadra hermaña, fær nú ecki stadist tillit eiñar ambáttar og nockurra þènara; fyri þessum audvyrdilegu persónum verdur hañ svo skèlkadur, eins og hañ ætti ad fángast af þeim og deydast. Hefdi nú hans afneitan ecki skèd nema eiñsiñi, mátti hönum hafa sýnst nockurt vorkunar-mál; en — hañ afneitar Jesú hvad eptir añad, og hafdi þó tíma til ad hugsa um yfirsjón sína, frá þvi ambáttin kastadi ordum á hañ í fyrsta siñi. Hann gèck af ásettu úti nýa freistinga-

G

hættu, og þegar hañ fyrst með lausum orðum afneitað hafði meistara sinnum, gjørði hañ það skømum seiña með eiði og formælingum. Með meðlíðunarsømum kjærleika og viðurkéñingu vors eglū veikleika, íhugum vér þetta Jesú lærisveins fall; í hvílíkt fordjørfunar afgruñ féll ecki Pétur hér, hañ, sem áður hafði sýnt sig svo mørgum øðrum fremri að hugprýði og frómlyndi? það var ecki að undra þó Júdas gjørði sig sekañ í þeirri synd, sem hañ drýgði; hañ hafði ætíð haft íllann mañ að geyma, aldrei elskað siñ Meistara af einlægu hjarta, og aldrei það aðhafst, sem hañ mátti æru hafa af; en, að Pétur, sem elskaði siñ Meistara með svo einlægum og heitum kjærleika; hañ, sem hafði svo næg rök um Jesú guðdóm, og við sérhvert tækifæri sýnt hafði sig ofurhugá, að þessi Pétur skyldi við svo litla reynslu huglaus verða og falla, það er undrunarverdt. Hvar er nú þessa lærisveins mikla hugprýði? hvar hans laungun að bera sañleikanum vitni? Á þeim stað, hvar hañ afneitaði Jesú, átti hañ að aflegg-ja órækañ vitnisburð um Jesú sakleysi; hañ átti að leitast við að sañfæra Jesú óvini um ránglæti þeirra, straffa þeirra

blódgyrni, ad minsta kosti vekja nockra medlídun hiá þeim vid hinn saklausa Jesúm; en á þessum háskasama stad, hvar hann var staddur, gætti hann engrar þessarar kiærleiks=skyldu, hann igrundadi hverki Jesú óvina hardhýgi, né hans sakleysi, því sídur skyldu sína ad vidurkenna hann opinberlega; hann hugsadi einúngis til siálfs síns, og hvernig hann sá mætti lífi sínu borgid, þad var honum dýrmætara enn Jesú líf, og hans nafns vidurkenníng. Sá píslar=daudi, sem hann qvídda mátti ef hann játadi sig Jesú lærisvein, ógnadi honum svo mjøg, ad hann héldt þad besta rádid strax ad afneita Jesú. Þessa Péturs afneitun feck nú Jesús ad heyra þá, er honum mátti falla sem þýngst, midt í því hann var dæmdur til dauda af rángLátum Dómurum, midt í því hann þola hlaut grimdarfyllstu medferd í þrælahøndum, midt í øllu þessu bar Péturs afneitan til, og hvad mátti nú ecki auka á qvalir þær hann leid, ad þessi hans traustt Lærisveinn skyldi afneita honum, og ecki vilja kannast vid hann. O! Jesú hversu mikil hefir í þad sinn verid þín sálar-qvøl! ecki vóru þad litlar píslir, sem þú leidst af

miskunarlausri medferd þrælaña, sem hæddu þig, hræktu þér í ásjónu og slóu þig, en hvërsu miklu stærri qvalar má þó ecki hafa ollad þér afneitan þíns eginn lærisveins, er í stad þess ad hughreysta þig í þiñi miklu qvøl, særdi þitt hjarta svo tilfiñanlegu sárt; en þetta útheimtist og til eins fullamælirs þiña písla, sem þér var af Fødurnum áqvardadur; þú áttir ad pínast bædi fyrir þiña óvina misgjørdir, og þiña vina yfirsjónir; sá veiki eins og sá sterki, spottariñ eins og meinsærismaduriñ, sá óstødúglyndi eins og hiñ ótrúi, áttu allir ad fiña fridþægingu í þiñi pínu. Hvërsu huggunar-rikt er þetta ecki fyrir oss, sem engu stødúglyndari erum eñ Pétur; hans Afneitunar-saga, er ordrétt afmálan vors egin hjarta; hans fall má verda oss til þeirrar varúdar, aldrei ad stóla á vora egiñ krapta, og aldrei af ótta fyrir mønnum, ad verda Frelsara vorum ótrúir. Þessarar varúdar þurfum vér því heldur vid, sem sá heimur er hættulegri, í hvërjum vér lifum, þar afvegaleidslur og tálsnørur á allar sídur umkríngja oss þær, sem jafnvel gjøra mættu hid stødugasta hjarta óstødugt. Hvernig megum vér nockurntíma treysta egiñ vitsmunum

vorum, rádvendni eda setníngi? litilvægt tilfelli, sem vér ecki fengum fyrirsjed, ellegar, sem oss vyrdtist einkisverdt, fær tídum í einu gjört vorn einlægasta ásetníng ávaxtarlausann. Hversu opt hafa ecki leidast látid til óstödugleika, ákofustu Evangelii vidurkénnarar, og gudhrædsluñar einlæguftu elskarar hneigst til ad víkja frá réttum vegi, jafnvel fyrir léttvægustu tilefni, svo sem fyrir litilfjörlegt smjadur, gladlegt spaug, máské fyrir óttasakir ad misþócknast þeim, hverra vinfengi var áridandi; máské fyrir lucku og metorda skuld á komandi tímum; máské af eintómri gédlempni þeirri, ad haga sér eptir annara þenkíngar-hætti, eda þúsund ödrum tilefnum, sem í sjálfu sér adgætt, eru nær því einkisverd, og þegar vér skeikum í fyrstuñi, megum vér þegar qvídá brádu falli. Pad fyrsta afvik á lastanna veg ollir því, ad vér fáum ecki umflúid ad villast lengra; ad minnsta kosti vill torveldara veita, ad snúa aptur, þegar madur einusinni hefir vogad sér á lastanna afveg. Til ad ná þeckjanlegum framförum í gudhrædslu, útheimtist margra ára æfíng, en til ad falla í stóra misgjörnínga og syndir, nægja fáir dag-

ar jafnvel nockrir tímar, hverſu ſem hjarkad er vandad. Hverſu lítid megnum vér veſælar manneſkjur, ef vér einir ſkulum fyrir oſs ráda? hverſu ſnøgglega verdum vér ecki ſigradir, ef vér í trauſti á eginn kroptum vorum, vogum oſs út í ſtrídid? mundi þurfa til vid oſs bál edur aftokuſtadi, eda pínu-becki, eda grimdar medhøndlun, ad vér ſvorudum: ecki þecki eg Jeſúm? miña þarf tilefnid: ecki nema ad oſs ſé ſmjadrad, ſvo afneitum vér Jeſú. Hverſu margar tillockanir til þvílíkra ſynda, géfur ecki tímaña vantrú? má ecki af mørgum heyra hádyrdi á móti trúñi? kanñſké vér þola megum med forakti til vor ſagt: þeſsi er eiñig eiñ af þeim, ſem trúa á Jeſúm af Nazareth; vér kuñum kañſké ad haldaſt þvílíkir, ſem ecki þeckja réttañ lifnadar-máta, ſem miltis-ſjúkir eda mañ-óvinir, ef vér ecki tokum hlutdeild í almaña lyſtiſemdum, þá er þad og vid øll þvílík tilefni og tækifæri, ad vér vaka megum yfir hjarta voru, ad þad láti ecki ſigraſt af þvílíkum freiſtingum. O! Jeſú! þegar vér ſtaddir erum í þeirri hættu frá þér ad lockaſt, vyrdſtú þá ad miſkuna þig yfir oſs! réttú oſs þina hægri hønd, þegar vér ætlum ad ſockva nidur í

eymdanna afgrunn; láttú það aldrei ské, að vér lockvinst frá þér; géfdú oss náð til að leita hælis hjá þér í óluckuñi, en gleyma þér aldrei í luckuñi; æ! að vér mættum reynast þér trúir til dauðans! það mun verða vor hrósan á þínum tilkomu-degi.

## 15. Föstu-Hugvekja.

Jesú Gæðska við Pétur fallinn, Lúk. 22.

Marla hafði Jesús sjeð siñ elskaða lærisvein af freistíngunni sigraðañ og fallinn, fyrr enn hann með flýtir fékk honum á fætur hjálpað og útryckt úr voðanum, sem hann var staddur í; óðar enn hann féll, varð hann aptur á fætur reistur; svo ótrúann, sem Petur sýndi sig nú Meistara sínum, svo ástúðlegann sýndi Jesús sig þó honum. Hverr fær nóglega igrundað mikilleik þessa Jesú kjærleika? hverr gétur ánægjanlega skilið, hversu mikið að iñibindi þessi orð: Jesús leit til Peturs? þessi qvaldi maður átti nú að stríða við svo margskonar eymdir, að ecki máttu undur þykja, þótt hañn einúngis þenkt hefði um sjálfann sig, og um þær píslir hañ leið. Sínu andliti, vanvyrdtu með hrákum og höggum, augunum þrútnum af tárum, snéri hañ nú frá öllu og

til þess, sem nú jók honum mesta qvøl. Máské Jesús hafi nú stadid bundinn vid stolpa, og lidid, án þess ad géta hrært sig, alla þá vanvyrdu, sem honum var gjørd; engin medhøndlan, hversu grimmileg, sem hún var, fékk honum vikid frá rósemi sinnar sálar, en þegar hann heyrdi, ad hans eginn lærisveinn forniældi sér medmørgum eidum, þá snéri hann sér vid til þessa manns, sem gaf honum lángtum tilfinnanlegri sløg, enn hin vóru, sem hann þola mátti af grimmum þrælum; hann leit til hans, til þessa ótrúa, hrædda vinar, sem ecki einúngis hafdi gleymt honum og vanvyrdt hann, heldur þad, sem enn þá var þýngra, afneitad honum; hann leit til hans, þó ecki med því reidi tilliti, sem grimmt hjartad ur hegnari litur til fángans, ecki med þeim grimdar augum, sem hinn, er órétt leid, litur til síns mótparts, ecki med því stollta tilliti, sem hinn voldugi litur til hins vesæla, sem hann þykist stygdur af; ecki þeim hefndar-augum, sem drepa vildu þann óvin, er sekann hafdi gjort sig í nockrum misgjørníngi, þvílíkt tillit gat ecki stad haft hjá honum, hvers heiloguslu augu sýndu einúngis hreinasta manns kjærleika. Þad tillit hann gjørdi

til síns fallna lærisveins, var það augnatillit, sem sýndi sárustu sorg og viðqvæmasta kjærleika; hefði Jesús gétað talað, enn máské hann hafi nú verið svo medfarinn, máské svo ørmagna, að hann hafi ekki, vegna pínunnar, fengið orðum uppkomið, en hefði hann gétað talað, með hvílíkum harmi og viðqvæmri ástúð, mundi hann ecki ávarpað hafa sinn Lærisvein, minnt hann á sína hettyrði, géfið honum til kynna sína hjartasorg? Þó var augnanna mál enn þá eptirtakanlegra fyrir Pétur; Jesús þurfti eckí nema að líta til Péturs, til að ségja honum þarmeð allt, hvað jafnvel ecki hin kroptugasta orðsnild mundi hafa sagt gétað; hvað sá Pétur, þegar hans augu mættu Jesú augna tilliti? al-blóðugt náhleikt andlit, augu af hverjum tárin útflossuðu; og hvað sagði þessi sjón honum? Pétur! svo grimmilega er mér misþyrmt, og þá, þú vilt líka auka mína pínu; sjáðu! hversu mínir óvinir hafa útleikið mig; eg þoli hogg og háðúngar, og þú vilt einnig auka þær, hversu djúpt, ó! Pétur! hversu djúpt ertu fallinn! Jesús leit til Péturs; þannig lítur máské trúfastur faðir til sonar síns, sem fyrrum var hans yndi, og væntanleg elli-stoð, en er nú afvegaleidd-

urordin ad gudleysingi, nú, þegar dauð-
iñ nálægir sig hinum aldrada fodur, lætr
ur hañ siñ fortapada son kalla ad bana-
sæng sinni; daudans ángist hefir svipt
hann málinu, svo hann gétur engu ordi
uppkomid; en hañ lítur til sonar síns, og
þetta sídasta tillit af þess deyjanda fodurs
hálf broftnu augum, á ad sýna syninum
hans sárheita kjærleika og brennandi á-
hyggju um hans velferd; en þessi afmál-
an er alltof sljó til ad íminda sér þá vid-
qvæmni, er sýndi sig í Jesú augna-tilliti
til Péturs. Med ómótstandanlegri mañ-
gædsku horfdi hann á hann, og svo aumk-
unarlega, sem ásjána hans var útleikin,
svo var þó audþeckjanleg í hans gjørvollu
andlitsfalli hin stærsta högværd, vinsemd
og mannúdlegleikt; og, ó Pétur! í hvílíkann
eymda afgruñ hefdi ecki sála þín
nidursockid, hefdi ecki Jesú vidqvæmatil-
lit nú hjálpad þér? hversu nálægra varstú
ecki þeim háska, sífeldt lengra ad fram-
gánga á lastaña vegi, ætíd ad verda kald-
sinnadri vid meistara þiñ, og forherdtari
í hjartanu á móti sannleikans verkun?
máské þú, blindadur á lastáña vegi, hefdir
svo lengi áfram haldid, þar til þín sam-
vitska lekfins uppvaknad hefdi med pín-

andi orvæntun; hvílíkur óútmálanlegur kjærleiki! Jesús lítur til þín, nú þegar svo stórt vidliggur; hans augna tillit átti ad minna þig á heitvrdi þín; hans augna tillit átti ad uppfylla hjarta þitt blygdun og hugar-ángri, vekja þig af þínum svefni, varna þér framhalds í syndinni, vera þín huggan í þinni einsemi, og sannfæra þig um þíns Meistara vidvarandi kjærleika; allt þetta vildi Jesús med sínu tilliti til Péturs hafa áunnid, og lofud veri hans nád, ad hann ecki bar forgéfins umhyggju fyrir þessa fortapada syndara frelsi; en þin nád hefir eilífi Miskunnari! gjört sig dýrdlega á oss; ertu ecki sá, sem leiddir oss til baka frá fordjörfunarinnar afvegum á dygdanna veg? O vor Gud! fyrir laungu værum vér í vorum syndum til grunna geingnir, eda vort hjarta forherdt ordid móti öllum gódum hræríngum, hefdir þú ecki vyrdt oss þinnar umhyggju. Med hvílíkri trúfesti fylgdir þú oss ecki eptir? med hvílíkri gædsku leitadir þú ecki ad oss? med hvílíkri magt útryckt-ir þú oss ecki úr hættunni, þegar vér fórum skadlega afvega? hvad ástúdlega leitadir þú ecki ad oss þegar vér med hræsni afneitudum þér, ad vor sála ecki skyldi tap-

ast? o vor Herra og vor Gud! taktu aldrei þína nád frá oss! líttú medlidandi auga til vor, þegar vér med ordum, gjordum edr hugreñíngum afneitum þér, svo vér ecki deyum sem þíns kross óviner! líttú til vor med vidqvæmri miskun og medaumkun, þegar freistíngarnar vilja fella oss, ad vér fá megum hugar-mód og styrkleika; líttú til vor, þegar vér huggunarlausir ætlum ad falla í orvæntun vid endurminníngu vorra synda, svo vér siña megum rósemi vorum sálum; æ! líttú til vor, þá loksins ad því kémur, ad vér liggja hljótum hjálparlausir, veikir og gledi fyrrtir á vorri bana-sæng, svo ad vér þá siña mættum endurnæríngu í vorri daudans ángist.

## 16. Fostu-Hugvekja.

Péturs Yðran, Lúk. 22.

Hvílíkann krapt hafdi þess sár-qvalda Jesú augna tillit. Hér sýndi Jesús sig í fjotrunum sem Herra þañ, er allra manna hjortu hefdi í sínu valdi. Hversu máttfarin og ávaxtarlaus eru ecki tídum vor ástúdleguſtu og medlídunarsomustu augna-tillit? hversu sjaldan luckast godum fodur, ad fá sitt tapada barn leidt frá

villuvegi, med því hræranda augnamáli eda ordum þeim medolum, sem ástsemi hans óskadi ad fá honum umvendt med. Þörubist var Jesú tillit til síns fallna vinar; þetta augna tillit þreyngdi sér inn í Péturs sálu, og sýndi honum í einu bædi stærd hans syndar og háskann, sem hann hafdi varpad sér í. Þetta augna tillit vakti hann af svefninum, sem hann var fallinn í, og leiddi í einu til hugleidingar misgjörnings síns. Pétur féck ecki stadist Jesú tillit; med flýti géck hann út af Biskupsstofunni, sem honum var ordinn svo hættulegur stadur, yfirgaf hann syndara soll, sem leidt hafdi hans hjarta frá sínum Meistara; einvera var nú ad vísu sorgleg fyrir Pétur, en þar hjá nytsamleg. Í einrúmi féck hann best íhugad stærd síns misgjörnings, og mikilleik Jesú nádar, þar gat hann ransakad med athygli, hversu hans hjarta var ásigkomid, er nú var afvegaleidt af þeim ótta, sem yfirféll hann; þar gat hann íhugad hversu smámsaman hann leiddist afvega, þar til hann loksins féll. Enginn efi er á því, ad vér mundum lángtum lengra komnir á gudrækninnar vegi, ef vér hannig fylgt hefdum Péturs dæmi. Svo lengi, sem

vér fáum ecki slitid ofs frá gjálífis. solli og gledskap, í hverju hjarta vort, misst hefir sakleysid; svo lengi, sem vér leitum ofs á-nægju í yndislegum vellystingum, lystisemdum og óhæverksu samtali, sem nidur-drepid hafdi hingad til hjá ofs sérhvern gudrækuis þánka; svo lengi, sem vér ecki umflýjum þá stadi, sem bjóda ofs tækifæri til þeirra synda, sem vér erum hneigdir til, eda kunnum leidast til ad drýgja, svo lengi verdur ad engu sérhverr gódur ásetn ingur, sem vér tökum ofs fyrir hendur. Byrjadú því, kristinn madur! med þeirr-ar ædstu nádar adstod, ad yfirgéfa sem fyrst þessa vegi. Sektú þér fyrir sjónir, med hversu medlídunarsömu auga Jesús muni til þín líta, er þú svo tídum afneit-ar honum, med ósidsamri késkni og margs-konar fáfengilegum lystisemdum. Hug-leidtú, hvert þú mundir vilja hafa þann ad sjónar-vitni þíns ósidsama framferdis, hverjum þú ert skuldbundinn ad veita mik-inn heidur; nú er Gud, hinn Jesús og engl-arnir ætíd ósýnilegir vottar ad þínum syndsamlegum athöfnum, og vildir þú þá drýgja syndir þær, í svo heldvyrdra vitna nærveru, sem gjöra þig ad vidbjód í þeirra augum? æ! umflýdú þær lystisemdir, sem

ofmjög inntaka þitt hjarta; flýdu þá stadi, hvar Gud og Jesús kann ecki nálægur ad vera med sinni náð. Gjördu þér ómak, fyrir Guds anda krapt, ad slíta þann fjötur og hlecki, sem halda þér fangaðunn í lastanna valdi. Leitadu einveru þeirrar, sem þér var híngad til svo gledisnaud, því lengur, sem þú venur þig til einveru, þess ábatasamara er þad hjarta þínu, þú lærir þar med þá kunnst, ad vera ánægdur fyrir utan háreystis gledi-solli, og ánægdur einmana, án afvegaleidandi vina félags; þá muntu fyrst fá þeckt þíns egin hjarta sanna ásigkomulag, sem þér var hulid á medan lifdir í heimsins gjálífa solli. Pétur huldi höfud sitt af blygdun og ángri yfir drýgdri synd, þegar hann géck út frá þeim vonda solli; nú var honum horfid sjálfbyrgings oftraustid á sínum eginn kroptum, sem hann stóladi uppá ádur, þegar hann vogadi ad segja vid Jesúm: Herra! eg er reidubúinn ad gánga í fángelsi, já, í daudann sjálfann med þér; nú héldt hann ad sérhverr, sem fengi sig aungum litid, mundi brixla sér um óstödugglyndi sitt og hugleysi; sérhverr rádvandur madur mundi nú kasta forakti á sig. Æ! hversu mikid brestr oss á ad vera þann

ág sinnadir; máské vér séum svo lángt kom-
nir á lastaña vegi, ad vér drýgt gétum stór-
syndir blygdunarlaust fyrir utan allt áng-
ur og trega. Máské vér jafnvel ecki rodn-
um framar vid, þó vér tølum hádyrdi,
kláin, baktal edur lýgi, edur heyrum því-
líkt skammarlegt tal af ødrum. Máské
vér leitum vorrar æru í því, ad vera hér í
sinnadir, sem fordjarfadur almenníngur,
og þó vér séum enn ecki ordnir svo blygd-
unarlausir í lastanna æfíngu, megum vér
þó medkéña oss stór-syndara á móti Gudi.
Ad sønnu leidumst vér til blygdunar yfir
brestum vorum, þegar samviskan, edur
trúr vinur, minnir oss á þau, en því eru
þau oss þá svo kjær og ástfólgin? ó! Gud!
þú þeckir vora vanart, audmýktú vor
hjørtu, og haldtú oss vid þig stødugum!
Pétri, sem hingad til syndist hugsunar-
laus um hañ sálar voda, hann steypti sér
í, og tilfinníngarlaus vid qvalir þær, sem
Jesús leid, brá svo vid Jesú tillit, ad hañ
ecki einúngis géck út úr þessum þræla hópi,
heldur grét beisklega; þetta var sú fyrsta
hægd, sem hans særda hjarta gat fengid;
en þad var og hin fyrsta verkan þess gud-
dóms kraptar, er samfara var Jesú augna
tilliti. Hjarta Péturs var enn ecki for-

herdt ordid á móti samvitskunnar brixlyrd-
um, hann sann stærd syndar sinnar, sem olli
honum óþolandi sálar órósemi, en fann
léttir í ad úthella bitru tára flódi; ecki sid-
ur hösum vér orsök til ad gráta biturlega
vor afbrot. Gud verndi oss frá því á-
standi ad verda tilfinníngarlausir, þá vér
yfirvegum fjølda og stærd vorra synda!
hann verndi oss frá ad kætast nockurntíma
af því, ad oss luckast ad syndga! hverr, sem
ecki finnur efni til ad ángrast yfir syndum
sínum, hann fær heldur ecki gladst af því,
ad vita sig til nádar tekinn. Gledja má þad
oss, ad vér erum enn þá ecki svo forherdtir.
Hugleiding vorra synda og beiskra písla,
sem Jesús fyrir þær leid, vekur nú, þegar
vér vyrdum þetta fyrir oss, trega í hjarta
voru, og pressar oss tár af augum, en —
hversu skjótt eru ecki þessi tár þornud, og
med þeim horfin sú einlægasta ydran og
besti ásetníngur? Varanlegri var sú verk-
an, sem Péturs ydrunar tár høfdu, varla
munu þau þornad hafa ad fullu, hans líf
var þadan af sífeld ydran. Hafi hans
elska verid veik þegar hann afneitadi Jesú,
hversu sterk, hversu ákøf og brennandi
var hún þá ecki sídarmeir, þegar Jesús

spurdi hañ: Simon! elskar þú mig? já Herra! sagdi hann, þú veitst alla hluti, þú veitst ad eg elska þig. Í þetta sinn afneitadi hann Jesú fyrir hans óvina augsýn, en hversu hugdjarfur medkéñdi hañ þá ecki Jesúm sídan, ecki fyrir litlum hopi, heldur fyrir mørgum þúsundum hans mótstandara? þó ad hañ flýdi nú frá dómstóli hinna ránglátu, med hvílíkri gledi lét hañ sig ecki sídan færa frá einum dómstóli til annars, frá einu landi til añars, og til skiptis leida fyrir Gydínga og Rómverja rétt? þó ad hann hafi nú verid ofhugdeigur til ad útgéfa lífid fyrir Jesúm, med hvílíkri gledi gaf hann sig ecki sídan í daudann fyrir hans nafn; og mundi þúsundsinnum hafa gengid med hønum í daudann? o! ad vor ýdran, vort ángur og tár, hefdu eins varanlega verkañ! ó! ad vér, sem híngad til høfum Jesúm svo litils aktad, mættum hér eptir elska hann því heitara; og verda honum því fastar áhángandi! en hvad megna þessar vorar óskir? Jesú! þiñ almáttugi kraptur beygi vorn vilja til þeßa góda ásetníngs, og styrki ós til ad framqvæma hañ! þú, sem ecki útskúfadir þínum Pétri, þegar hañ grátandi leitadi nádar; medaumkunarsami,

nádarríki Lausnari? láttú oss og finna þitt andlit, þegar vort hjarta úthellir tárum og klögunum fyri þér! styrk oss í þeim ásetníngi, ad offra þér oss, og eins og vér híngad til verid höfum heimsins eign, syndarinnar þjónar og offur vorra fýsna, svo láttú oss hér eptir vera þína eign, þína þjóna og þitt offur, og þad um alla eilífd!

## 17. Föstu-Hugvekja.

Guddómur þess lídanda Jesú, Lúk. 22.

Því framar, sem vér sannfærumst þar um, ad sá píndi Jesús sé hinn sanni, eilífi Gud, því betur styrkist vor trú um Jesú mátt og nád til ad fá oss hólpna gjört. Jesús sætti því hendtugu tækifæri vid hvert hann fengi géfid sínum óvinum vitni um hverr hann væri. Híngad til hafdi hann þagad til allra spurnínga, sem honum vóru gjördar, hann þoldi án mögl-unar alla misþyrmíngu, sem vid hann var í frammi höfd, en þegar til þess kom, ad hann vitna skyldi um sitt medalgángara embætti, og sinn guddóm, þá taladi hann med allri djörfúng og alvörugéfni; hann gaf sínum óvinum klárlega til kynna; ad

almættis hans og hátignar opinberan, skyldi innan skamms byrja, þá nefnilega, er heilagur Andi yrdi sýnilega úthelltur, og hans reidi-dómur yfir Jerúsalem framkvæmi. Og hvad mátti sanna Jesú anddóm framar enn uppfylling þessa spádóms, sem skédi ad faum vikum lidnum, og þegar sá fyrisagdi hegningar tími kom yfir Jerúsalem, voru eñ þá margir þeirra lifandi og nálægir, sem nú heyrdu hans ord. Vér finnum ecki einúngis þessa, heldur miklu fleiri órækar reksemdir Jesú Guddóms, jafnvel í hans djúpustu nidurlægíngu. Fyrifram vissi hañ hverr sig mundi svíkja; hann fyrisagdi tímann, nær Pétur mundi afneita sér; med einu ordi varpadi hañ óvinum sínum til jardar; hañ giordi kraptaverk í sama bili, er hañ var til fánga tekiñ; hañ fécк, med augna tilliti einu, falliñ Pétur vakiñ til umvendunar; hañ sañadi af krossinum, ad þad stód í hans valdi, ad taka syndara til nádar, og þegar hann var nidurstíginn á lægstu nidurlægíngar troppu, og leid daudañ, hversu dýrdlega vard hañ þá ecki, eins og Guds Sonur auglýstur? sólin sortnar, jordin skélfur, grafirñar opnast, allt verdur samfara til ad opinbera

þessa devandi Hátíðar. Hverju kröptugar bragurmr finnum vér ecki í ollu þessu? vér siáum ad Guddómariñ styrkt hefir þá lídandi mannomlegu náttúru vors Frelsara, svo hún fengi stadist og berid þær pislir, sem hañ hlaut ad líða til ad frelsa mañkynid. Vér siáum nú, ad vors Lausnara píslir hafa ómælilega mikid gyldi, og nú fær fyrst Jesú pína og dandi í vorum augum sitt fulla verd; nú er þad audsied, hversu þad, sem Jesús leid, lángt yfirgengur þad, sem allir hans Píslarvottar sídan líða máttu; mundi vor Jesús, eingángis fyri þá skuld, hafa útstadid svo margfaldar píslir og svo smánarlegann dauda, ad vér í honum hafa mættum dæmi oss til eptirbreytingar í vorum þjáníngum og í vorum dauda? skyldi hañ ein nais hafa þessreama lídid, þá fáum vér ecki skilid, hvers vegna Sonur Guds var eainlega þar til valiñ? og til hvers mátti þetta drgdaña vpparsta munstur nota oss, ef vér ecki ásamt hefdum fengid krapta til ad líkjast því? Nej, vér erum vissir þar um, ad Jesú pína er af céndanlega ødra verdi; vér siáum í vors lídanda Jesú persónu, ecki einúngis trúariñar Píslarvott, helldur og hennar

höfund og hetju, og í hverju fótmáli, sem hañ framgengur á sínum píslarvegi, ekki einúngis munstur, heldur og offur fyrir syndugt mannkyn. Það má í einn orði segja: að vér finnum sameinað í Jesú Píslarsögu vorrar trúar- og síða lærdóm, í Jesú persónu vorn Frelsara, og í vorum Frelsara vorn Guð. Jesú dauði, hvílíkur dauði, og það fyrir oss! að vera Guð en verða maður til þess, að géta liðið ó-endanlega mikið, verða hiñ vanvyrðtasti og lítilmótlegasti á meðal maña; sveitast blóðugum sveita í Gethsemane í stríði við dauðann; hrópa á krossinum; Guð minn! Guð minn! því hefir þú yfirgéfið mig? og loksins deya fyrir þverbrotnar manneskjur, fyrir upphlaups meñ, fyrir oss, hvílíkur dauði er þetta? þannig dó engiñ Stephán, engiñ Jakob, engiñ Páll. Ef vér yfirvegum Jesú Píslarsögu með réttu hugarfari, er það ómögulegt að vér fáum hana lesið eður um hana þenkt án þess, að vekjast til undrunar, meðlíðunar, trúar, kjærleika, þacklætis og eptirbreytíngar. Með hversu breñandi kjærleika ættum vér ecki að elska vorn Lausnara, sem svipti sig þeirri hátign og sægnuði, er hann hafði hjá Föður sínum, til

ad fá oss fríada frá heim eymdum, sem syndin steypti oss í? hvernig kann hackslæti vort ad verda nógu breñandi, hegar vér yfirvegum há eilífu sælu, sem vér eigum vorum Medalgóngara ad hacka. Æ! vort óhackláta hjarta, sem eñ há elskar oflítid hañ, sem oss hefir elskad allt til daudans! hiær hú, o Jesú! med híns Anda krapti, vort kalda hjarta, ad í hví upptendrast mætti breñandi elska til hín, af hínum guddomlega kærleiks eldi! lát oss æfinlega standa stöduga í trúñi á hig, har ed hú hefir med hínum fríviljuga dauda afrekad oss óendanlega sælu!

## 18. Føstu-Hugvekja.

Tilgángur Guds ad afhenda Jesúm í Heidíngjanna hendur, Jóh. 18.

Jesú Krists Píslarsaga er partur af sögu um Guddómsins huldu stjórnun, og mætti hún hó heldur heita: samansöfnun undrunarverdustu atburda, sem nockurntíma hafa á jördunni vidborid. Jafnvel hó Guds heilagleiki leyfdi ecki, ad hann med nockru móti styrkti mañaña vondsku til síns Sonar líflats, er hitt hó óneitanlegt, ad vér í sérhver-

júm parti Jesú þínu, fáum að sjá augljós-
ust rök um guðdómlega forsjón. Það var
Guðs forsjónar-verk að framqvæma það,
sem hañ hafði álýktað yfir Jesú, einúngis
með því að líða og leyfa athöfnum mañ-
frjálsann gáng, og sameina undrunarlega
aðskiljanleg tilfelli, sem sýnduſt ské af ein-
tómri hendíngu. Það var verkan Guðs-
forsjónar, að leiða fláræði Gýðingaña,
sem afhendti Jesúm í Heidingjanna hend-
ur, að þeim tilgángi, sem útkrafðist til
framqvæmdar þessu mikla forlíkunar-
verki. Í þessu efni höndluðu Gýðingar
eptir ráði síns spillta hjarta. Þeir vildu
með Jesú afhendíngu til Heidingja, velta
fólksins fjandskap uppá Rómverja, og olla
honum þvílíks dauða-straffs, sem gjöra
matti hann að viðbjóð í alls Gýðinga-
lýðs augum. Þessi vondi ásetníngur luck-
aðist þeim, en það, sem héraf flaut, var
komið undir stjórnun æðra vísdóms, þeir
hugsuðu íllt, en Guð hugsaði það til ens
góða. Án þess að skérða í nockru hans
heilagleika, var Guðs fyrirfram ákvarð-
aða ráð, að Jesús afhendast skyldi í Heid-
íngja hendur. Hefði Jesús dáið undir
Gýðinga-lýðs höndum, þá hefði fregnin
um dauða hans, ecki svo áreiðanlega út-

borist til enna heidnu landa, heldur hvilst einúngis iñan takmarka Gydingalands. Rómverjar og Grickjar hefdu þá traudlega fengid fregnir þar um; en af því Jesús var af dogum ráđinn af Gydingum og Rómverjum sameginlega, hlautfregnin um hans dauda því kunnari og útbreiddari ad verda, jafnvel á medal þeirra þjóda, sem í engu sambandi stódu vid Gydínga. Fregnin um krossfestañ Kraptaverka-gjorara, eyradi þegar veginn fyrir kristnibodinu ádur enn Postularnir gátu komust til enna heidnu landa. Margir, sem heyrdu þeñañ atburd, urdu þar vid leiddir til godra þánka um Jesúm, ad minnsta kosti hrærdir til medaumkunar vid hann, og nú kunnu Jesú vitni, þegar þeir bodudu vorn krossfesta Frelsara, ad skírskota hér til, svo sem þess efnis, er bædi Gydíngum og Heidíngjum mætti alkuñugt vera. Þeir gátu nú bodad Jesúm hinn krossfesta hverjutveggju þjódinni, sem þeirra Frelsara, þar hverjirtveggja þessara lýda hefdu hjálpast ad Jesú lífláti. Hefdi hañ dáid undir Gydíngaña hondum, þá hefdi hañ ecki lidid krossins dauda, sem einúngis var daudastraff á medal Rómverja. En — Jesús

ûs átti eginlega, eptir Guds áqvardada rádi, ad lída þetta líflát, í hverju sametnud var ysrid stor hádúng hinum allrabitrustu qvølum. Ad sönu hefdi hans daudi mátt forlíka, þó hann hefdi verid hálshøggvinn, sem Jóhannes Skírari, ellegar grýttur eins og Stephán, en hvørsu gátu þá fyrirmindanirnar uppfyllst, sem Jesús sjálfur þýddi uppá sinn dauddaga? hvørsu gat Davíds spádómur þá rætst, þar hann svo mørgum hundrud árum ádur spád hafdi: ad Heidíngjarnir mundu setja sig upp á móti Messíasi, og samansafnast í hópatali, ad menn mundu ígégnumstínga hans hendur og fætur, og kasta hlutkésti um klædi hans. Einúngis af þeirri orsøk var þad naudsynlegt, ad Jesús lidi krossins dauda, og dæi því undir Heidíngja høndum; en vid nágqvæmari eptirþánka lærum vér ad þeckja enn þá annann tilgáng Guds, því hann lét Jesúm þenna dauddaga lída. Frelsarans daudi átti ad vera þvílíkur, ad hann deyjandi, væri sem hádúng og adhlátur fyrir allra augum; þad átti ad vera þvílíkur daud-dagi, hvar vid hann úthellti sínu blódi, hvar vid hann yrdi bølvan fyrir oss, hvar vid enginn hans líma mætti sundurbrjótast, og hvar vid hann í

tali sinu og gjörvallri adferd, gæti med-deilt dýrmætustu lærdóma og ebluguftu hugganir. Allt þetta gat audveldast skéd vid krossins dauda. Í djúpustu audmýkt tilbidjum vér, o alvísi Gud! þitt rád, sem í sérhverju atviki vors Jesú pinu, saŭfærir oss kroptuglega þar um, ad þinn vísdómur hefir sigur unnid yfir öllum þeirra ógudlegu rádslögunum, og framqvæmt þid mikla verk, fyrir hvert heimuriñ skyldi frelsast. Hverju dýrmæt má ecki sála vorvera í þínum augum, þar þú svo mikid gjört hefir heñi til frelsis? en þú hefir med því einnig sýnt mikilleik þinnar speki og gædsku; þessa gædsku þína vill ecki heimuriñ þeckja, þitt alvísa rád er honum heimska, og Jesú kross hneixli. Í vorum augum eru þínar rádagjördir tilheidsluverdasti vísdómur; Jesú kross er oss verduguft vidurkéñing, vor æra og vor trú; þo ad heimurinn rádslagi á móti þér og þínum smurda, mun hann þó, án sinnar vitundar, já, jafnvel á móti vilja sínum neydast til ad framqvæma þitt rád; mikli Gud! hverju huggunar-ríkur er ecki þessi sañleiki fyrir oss, í þessa lifs umbreytingum? eckért gétur oss í heiminum mætt, nema hvad hiñ alvísi hefir frá eilífd fyrir-

sied; þegar vér trúum á Jesúm og elskum
hañ, þá mun allt, jafnvel hid illgjarnasta
vélrædi, sem menn hefdu á móti oss upp-
spunnid, hljóta ad þéna oss til-besta, hann
mun og reynast nógu máttugur til fram-
gvæmdar sinn ályktada radi med oss,
hverjar hindranir, sem mæta kunn; það
baktal, sem óvinir vorir vilja fella oss
med, mun uppheſja oss; háð-yrdi þau,
med hverjum þeir spotta oss, munu falla
til baka á sjálfa þá; ósóseminn, hverrar
þeir vilja oss olla, mun efla vora luckn,
og þó ad þeir svipti oss lifinu, mun þo
daudinn opna oss inngaungu í betra lif.
Þess høfum vér einungis ad gæta, ad
hjarta vort sé sinnad, sem Jesús var sinn-
adur, í øllum þeim þjáníngum sem oss
mæta. Sifeldt hljótum vér ad vardveita
sama trúnadar-traust, vera svo undirgéfn-
ir og hlýdnir Gudi, sem vor Jesús var, og
varast ad olla oss samvitsku áklegunar, þá
gétum vér óskelfdir mætt ollu, hverju
helzt, sem ad høndum ber, þá megum vér
vera þess fulltrúa, ad allar ráds ályktanir
vors Guds, munu lokſins endast med náð
og vegsemd, því séum vér honum trúir,
heldur hañ í vora hægri hønd, leidir oss ept-
ir sinu rádi, og medtekur oss sídan til æru.

## 19. Föstu-Hugvekja.

Jesú saklevsi sannad af hans óvina sakar giftum, Lúk. 23.

Híngad til hefdu Jesú óvinir framfært þær sakargiftir honum á móti, sem í einfaldra augum máttu bera nockurt sannleiks skin; en þegar þeir fengu það nú reynt, hversu gagnlaus þeim vard þvílík vidleitni, blygdudust þeir ecki vid ad uppdikta opinbera lýgi, Jesú til áfellis. Þeir dyrfdust ad ljúga uppá Jesúm þvílíkum sakargiftum, sem öllum var audsætt ad ósannar vóru, því hver lýgi var ótrúlegri enn sú, ad hann skyldi hafa fráfnúid fólkinu, og viljad æsa uppblaup, hann, sem einkis leitadi framar, enn stilla til fridar og rósemi, og flúdi úr höndum alþýdunnar, þá fólkid vildi hafa gjört hann ad Kóngi? ámedal þeirra morgu á hverjum hann sýnt hafdi sín dásemdar verk, hafa efalaust nockrir verid svo þacklátlega sinnadir, ad þeir viljugir hefdu umbunad honum þegna velgjörnínga med hverju helzt í þeirra valdi stód, en vér finnum þess hvergi rök, ad hann hád hafi edur þyagja vilj. d m.. umbun edur ávínníng fyrir sín mildríku kjærleiks verk. Aldrei

leitadi hann med þeim egin fordíldar edur ábata, hann vildi heldur lifa í forakti og fátækt, enn sýna minsta egingirnis skin, í godgjørdum sinum. A hvada røkum byggdud þér þá, illgjørnu Gydingar! ad Jesús hefdi uppæst lýdinn? hvar hafdi hañ nockurntima þá kenningu framfært, sem gæfi hid allra minnsta skin til þessarar sakargiftar? af hverjum hans lifsathøfnum fæst þad í gátu leidt, ad hans fyrirtæki væri þvilikt; optar enn eitt sinn hafnadi hañ þeim voldum, sem alþýdan vildi hefja hañ til; hefdi honum verid añt um, ad fá sér flock alþýdu til fylgis, var þad audunnid, þvi fólkid, sem eins undradi hans kenningu og kraptaverk, var honum yfrid fylgisamt, og hversu fúslega mundu ecki þeir sjúku, fátæku og fyrilitnu hafa tekid hans málstad, og styrkt hans fyrirtæki, hefdu þeir þess varir ordid, ad hann vildi gjøra uppreist nockra í landinu? eda þvi var nú lýdur þessi, añars svo nýjúnga- og upphlaups-gjarn, svo afskiptalaus, þá foringi þeirra var til fánga tekinn? audsætt er þvi sérhverjum hversu átyllulaus þessi uppljóstur var. Ecki ad sídur svo blygdunarlaus og illgjørn, sem þessi sakargift var, bættu þeir annari

lýgilegri vid: Jésús hefir — segja þeir — bañad ad borga Keisaranum skatt. Sá er-eginlegleiki hins forherdta og blindada, ad hann loks nær þeim framförum í löstunum, ad ekkert fær framar minstu verkun hjá honum giört; þar til útkrafdist þvílík mannvondska, sem hjá Jésú fjandmönnum var nóg fyrir, ad kunna án blygdunar, án hugarhrellíngar, já án tilfinníngar hlada einni ódygd ofan á adra: Í fyrstu þá menn villast á lastanna veg, gjörir samvitskunnar áklagan þá stundum órólega; en þegar þeir taka ad á sást í löstunum, þagnar samvitskan, þeir drýgja þá hverjn glæpinn ödrum stærri, án minstu hjartans blygdunar. Þannig var nú Jésú óvinum varid; þeir upplugu þessari sakárgift honum á móti, sem ecki hafdi minsta sannleiks skin, því ecki nema fyrir tveimur dögum hafdi Jésús gefid Pharisæanna og Heródesar þénurum gagnstædann úrskurd því, sem þeir nú frambáru. Uppá spurníngunna: hvert rétt væri ad gefa Kejsaranum skatt? hafdi hann svarad þeim: gefid Keisaranum þad Keisarans er, og þad Gudi, sem Guds er, en svífdust þó ecki nú ad frambera þad, sem gagnstædt var Jésú ordum, og gjöra þenna lýgi-áburd

ad dauda sök. En í hvílíkri birtu skín hér ecki vors Frelsara guddómlega sakleysi! svo vanvyrdandi og vondskufull sem hans óvina lastmæli vóru, er þó eckért þeirra, sem nidri hans heilaga liferni; þeir hefdu víst ecki þagad um hiñ miñsta brest, sem fleckad hefdi hans líf, nú þá þeir leitudu alls þess, er honum mætti ad áfelli verda, heldur fagnandi valid til sérhverja jafnvel ogætnis yfirsjón, sem í Jesú fari hefdi verid fiñanleg, og fært honum til áfellis; en Jesú hreina og flecklausa liferni neyddi þá til ad gripa til lygiñar, og grunda á lognum lastmælum hans dauda-dóm. Hvílíkañ ypparsta Prest skyldum vér hafa, sem væri heilagur, saklaus, ófleckadur og fráskilinn syndurunum, ef ad vér fríast ættum frá vorri skuld. Sá Medalgángari, sem géck í borgun fyrir oss, mátti ecki fleckadur vera af nockurri synd, ef vér skyldum standast fyrir Guds dómi. O! hversu glediumm vér oss vid þitt sakleysi, vor lídandi Lausnari! í eilífa ørvæntun hefdum vér ordid ad falla, ef vér hefdum ecki þá hyggun, þegar samvitskan áklagar oss, ad þú ert saklaus fundinn fyrir Gudi og mönnum.

# 20. Föstu-Hugvekja.

Svikarans Júdasar ólukkulegu æfilok, Matth. 27.

Þar stóð sá ólukkulegi Júdas, kominn fram að þeim afgrunns hyl, sem tál-drægandi fýsna villa hafði fært hann, án þess hann gætti sín; þar stóð hann, sviptur allri hugar rósemi; hann sá afgrunnsins botnlausa djúp undir fótum sér, gékk sá-einn fótmál til baka aptur, nálægðist hann á ný og niðurvarpaði sér í hann fullur ör-væntingar. Já, örvæntingarfullur! ó! hvörr fær skilið, hvörr hugleidt fulla þýð-íngu þessa óttalega orðs? hvörr fær út-málað allar þær ógnanir, sem í því orði liggja fólgnar, án þess sjálfur að hafa reynt örvæntingarinnar pínu? og hvörr fær þá pínu reynt, án þess að gánga til grunna undir hennar byrði, eins og þessi blindaði syndari? í hvílíka ólukku steypir syndin! það er fyrsti lærdómurinn, sem þessa örvhlnaða dæmi géfur oss. Þegar Júdasi kom fyrst í hug það guðlausa verk, er hann síðan framdi, þá var hans hjarta svo blindað, að hann fékk ekki sjeð þá ó-lukku, sem fljóta mundi af hans synd, hann

leit ecki lengra, eñ til hiña veſælu nota, ſem̃ hañ vænti ſér af því ad eignaſt fáeina peninga; hañ hugleiddi ecki þá ſamvitſku ángiſt, ſem uppfylla mundi hjarta hans, þegar hañ framqvæmt hefdi misgjörning ſiñ, ecki heldur kom honum í hug ſtærd ſyndar ſiñar, þá hañ fyrir ſkam̃arlegs ávinings ſakir, vildi gjöraſt ſvikari Meiſtara ſins og mordíngi ſins Velgjörara, og mátti þañig útſlétta alla þacklætis, trúſkapar og rádvendnis tilfiñíngu úr hjarta ſínu. Þañig gengur þad dryckjumañinum, hañ hugleidir ecki í hvílíkann háſka hañ, í dryckjuſkapar ædinu, muni ſteypa ſér vid hvert fótmálid, ſem hann framgengur; hañ hrædiſt ecki þañ áfgruñ, ſem hañ fetar ad; hañ aktar ad engu varhygdar advaranir; en hvílík ángiſt má hañ ecki yfirfalla, þegar hañ aptur raknadur úr rotinu, verdur þeſs var, hverſu mikil ſú hætta var, ſem hann hafdi ſteypt ſér í, þegar hañ ſjer þá vanvyrdu, ſem á hañ er falliñ, og eymd þá, ſem hañ er komiñ í, án þeſs neiñ fái hjálpad honum. Í hvíliku áſigkomulagi var Júdas ſtaddur, þegar ſamvitſkan vaknadi og endadi ædi hans oſtýrilátu girnda. Nú ſetur hañ ſér fyrir ſjónir misgjörning ſinn ſvo

viðbjóðslegañ, sem hann raunar var, hverr eiñ þánki, sem hañ reñir til sjálfs sins, fyllir hañ blygðunar, ángistar og nagandi órósemi. Nú viðurkéñir hañ, þá skamarlegu orsøk, sem táldróg hañ til þessa svikræðis, þá litilsverðu þrjátíu Silfurpeninga, fyrir hverja hann seldt Meistara siñ, og nú, þegar hañ sér Jesúm til dauða dœmdañ, þenkir hañ til sinnar fordœmingar, er hañ vœnta má á þeim mikla Dómsdegi, fyrir Engla og mañа augsýn. J þvílíkri þánkanna ángistarsamri óróserni vyrdist honum, sem hann þegar sjái þañ af sér forráðna Jesúm í siñi dýrð, sem Dómara siñ, rétt eins og hañ heyrdi nú þegar þá hrumu rødd, sem vísaði honum til eus eilífa elds; eins og hañ þegar staddur væri á medal stallbrœdra siña á þeim stað, hvar allar vislir umkríngja hina fordœmdu. Til að friast frá þessum pínandi þaunkum og stytta ángist sína, til hvers grípur þá þessi blindaði? hañ tekur fyrir sig verk, sem snýr hans hugar imindun til reynslu þess, er hañ imindaði sér, og gjorir qvøl hans óendanlega, hann gengur burt og hengir sjálfann sig. Svo ofboðslegur má þeirr-

ar mañeſkju dauði verða, hverrar líf var ſvo viðbjóðslegt! en til þeſs krefſt ecki þvílík vondſka og forherðíng, ſem hjá Júdaſi var, að deyja í ørvǿlnun. Sérhver ſynd, ſvo litils jafnvèl, ſem hún er oktuð, fær oſs leidda að þeim ógnarlega afgruñi, í hvern ſvikariñ Júdas er falliñ. Sú ſynd, ſem oſs vyrdiſt eins og litilfjørlegt ſand-korn, á meðan ſamvitſkan liggur í dái, kann, þegar hún lokſins vaknar, að þryckja oſs, ſem bjarg, og torthýna oſs undir ſínum þúnga. Nú er það máſké í vorum augum léttvæg ſøk, að misþyrma hinum ſaklauſa, að draga eckjur og føðurlauſa með ránglæti á tálar, að ſetja til ſíðu þá ſkyldu, er vèr auðſýna egum foreldrum og yfirboðurum, en munum vèr og ſvo þannig dœma, þegar dauðinn er að oſs kominn? já! ſvorum vèr, komi hann til mín, þegar hann koma vill! ſetji mín ſamvitſka mér fyrir ſjónir ſtærð og fjølda minna ſynda, eg ſkal þó ecki, ſem Júdas, falla í ørvǿlnun. Með ſañri iðrun og ángri vil eg ſætta mig við Guð, og þar með gjøra mína ſamvitſku rolega. En, ſyndari! þú, ſem leitaſt við að hughreyſta þig með þeſſari huggun, þú gætir þeſs máſké ecki, hverſu ángurfullt og niðurbeygt hins

orvÿlnada Júdasar hjarta var, hvernig hañ leitadi allra þeirra medala, sem hañ vænti nockrar hægdar af, sinu ángistar-fulla hjarta, hañ var víst ecki svo rólegur, sem margur hverr syndari er, eptir drÿgdañ misgjörníng; hann fann til hins allra stærsta vidbjods fyrir sjálfum sér, og sinu voñdsku verki; blygdun, ángist og hatur til syndar siñar, var hjá honum samfara þúngsiñi og hjartans sárri hrygd. Hañ þeckti misgjörníng siñ, og skammadist sín ecki ad vidurkénna hann fyrir þeim, er vidurkénníng þessi mátti vera hin ógédfeldasta. Hann géck til hiña yppurstu Presta, og svaradi blódpeníngunum fyrir fætur þeim, hann leitadi huggunar hjá þeim, og meinti ad siña nockra hægd hjarta sinu, þá hañ med þessu móti friadi sig frá nockru af þeirri byrdi, er á honum lá; en allt þetta gat ecki læknad hans særdu samvitsku, eckért linad þá qvöl, sem endurmiñíng hans vondsku olli honum, eckért frelsad hann frá sinni orvÿlun. Reyndu sjálfur, o syndari! ad fiña rósemi í bitru hugar-ángri og tréga, þá sál þín er særd og slegin. Utbelltu tárafljódi; láttu blygdun og vanvirdu beygja þig til jardar, hvad ávinnur þú med því?

,þad ser svo fjærri, ad hjarta þitt fái vid þad miñstu rósemi, en má milu framar brésta þar vid undir sinni egin qvöl. Leitadú þér þá hægdar hjá þeim, er verid höfdu lagsmeñ þínir í þínum drýgda misgjörníngi; o! þeir sem svo grimmir vóru sjálfum sér, kuña ecki vid þig ad vera medlídunarsamir; þeir, sem sjálfir enga rósemi hafa, géta heldur enga rósemi veitt; þó ad þú fyrir þeim úthellir bitru tára-flódi, mundu þeir einnig máské svara þér: sjádú þar fyrir! o! vei þér! þegar þú ert einúngis komiñ uppá þitt egid rád! vei þér! þegar þín egin vernd á ad frelsa þig frá fordjörfuninni! hér er ecki nema einn vegur eptir, sem fái þér hjálpad frá þiñi ólucku. Láttú þitt ángur-pínda hjarta leita rósemi hjá þeim, sem úthellt hefir sinn blódi fyrir allar þínar syndir, Hefdi Júdas med ángist og trega yfir sinni synd, nálægt sig Jesú, hvert mundi hañ med miñi hjartagædsku hafa á móti honum tekid, eñ á móti Pétri, sem afsór hañ? o! Júdas! því skundadir þú ecki til hans, sem þú hafdir med þínum misgjörníngi á móti brotid, heldur eñ ad gánga til hiña grimu skálka? fyrir honum skyldirdú úthellt hafa tárum, en ecki þeim, er þig höfdu táldregid; hann

hefdi víst afþurkad þín tár. Fyrir hañ átt-
ir þú ad nidurleggja þad ydrunar offur,
sem þínir óvinir forsmádu, æ! hañ hefdi
tekid á móti því med gledi; honum áttir
þú ad játja þinn misgjørníng, hañ hefdi
fyrirgéfid þér allar þínar syndir, og hug-
hreyst þitt ángistarfulla hjarta med sinni
endurlausnar huggun. O! ad þessi hugg-
an væri æ lifandi í vorri sálu, þegar vér
enga rósemi fyndid gétum, en vér med
hjartans ángri miñumst vorra illgjørda!
lát oss þá, o Jesú! ecki ad eins sjá stærd
vorra synda, heldur ásamt stærd þinnar
miskunar, sem hylji þær; þegar umþenk-
ing Guds réttlætis og heilagleika uppfyll-
ir vort hjarta skélfandi blygdun, láttú þá
íhugun þiñar miskunar aptur hughreysta
þad. Ogni oss tilhugsan þeirrar fordæm-
íngar, sem vér med vorum syndum høfum
verdskuldad, láttú þá oss í hug koma þad
fullgylda lausnargjald, med hverju vér er-
um fridkeyptir frá eilífri fordjørfun!

## 21. Føstu-Hugvekja.

Jesú játníng fyrir Pílatusi, Jóh. 18.

Til eblíngar trúar vorrar og rósemi, er harla naudsynlegt ad þeckja þig, vor

píndi Frelsari! ad vera Konúng, af hverjum vér med rétti vænta megum alls þess, er útkrefst til vorrar lucku og frelsis. Pínir egin lærisveinar hefdu kannské traudlega þeckt þigundir þeirri stóru vanvyrdu, sem þú lídst hlautst, þegar á þér var engin mind eda fegurd, þú varst sá foraktanlegasti og fyrirlitnasti, fullur pínu og kránkleika, svo foraktadur, ad menn huldu sitt andlit fyrir þér, sem fyrir þræl: Því var öll þörf, ad þú gjordir játningu um þína konglegu hátign; og þó ad þessi játning væri hjá Pílatusi ávaxtarlaus, er hún þad þó ecki fyrir oss. Oss er þad nærsta mikilsverdt, ad vér vitum: ad Jesús er Konúngur, hinn fyrirheitni Messías og heimsins Frelsari. Nú hverfa allar sannsýnilegar mótsagnir, sem vér hingad til sýnumst fundid hafa, þegar vér leitudum hans konglegu hátignar. Óskiljanlegt var oss þad, hvernig Jesús kynni Konúngur vera, og þó svo foraktadur, svo skammarlega misþyrmdur, og svo djúpt nidurlæckadur: þad var oss ógripanlegt, ad Jesús, sem Konúngur, kynni hafa svo fáa þegna, og svo fáa af hinum ríku og mektugu, sem heita mættu þegnar hans; ad Jesú skyldi géfin öll makt á himni og á jördu, en ad

jardarinnar Furstar deildu þó heimsins londum og ríkjum á milli sín. Ad vera Konúngur og vera þó svo foraktadur, sýnist vera sjálfu sér mótsegjandi: en nú upplýsist þetta myrkur; hañ er Konúngur, en hans ríki er ecki af þessum heimi, hans ríki er sannleikans-ríki: vel sé oss, ad Jesú ríki er ecki jardneskt; nú hofum vér huggun, þó vér finnum hverki vini, luckn né metord í heiminum, heldur ermd, forakt og fátækt; nú skal þad ecki villa oss, þó vér fáum ecki allt þad, sem vér óskum oss, og væntum hér í lífi. Jesú ríki er ecki af þessum heimi; þessu ríki er ödruvísi háttad eñ jardariñar Konúngs ríkjum; vér þurfum ecki vid stórrar peninga summu: vér þurfum ecki ad offra blódi voru né andlegd, til ad fá oss stad keyptañ í þessu Konúngsríki: vér þurfum ecki ad endileggja oss sjálfa, til ad auka veldi vors Konúngs; ecki þurfum vér ad óttast fyrir missir audæfa þeirra, sem vor Kóngur hefir oss í hendur fengid. Jesú ríki er ecki af þessum heimi; jardnesk ríki eru undirkostud vidvarandi biltingum, þeirra makt og prýdi varir skamma stund, en þetta ríki mun útbreida sín takmork lángtum vídar, heldur enn tídin ágvardar jardneskra ríkja varanlegleika;

þegarallir trónar og herradæmi uppbrest-
ast, þegar Konúngar verda lítillæckadir
og gjørdir jafnir olmusu-mønnum, þegar
enginn á neitt það, sem hann megi yfir
drottna, þá byrjar fyrst vort ríki, þá mun-
um vér upphefjast til ædstu tignar, og ega
alla hluti. Jesú ríki er ecki af þessum
heimi, þér drambláta jardnesku Konúng-
ar! stærid ydur ecki, þegar Jesú ríkis vinir
standa fyrir ydrum dómstóli, þá vor Kóng-
ur sjálfur má verda af ydur fordæmdur;
hversu snøgglega munud þér ecki sviptir
ølkum ydar gêrsemum, allri makt, ølkum
heims vyrdíngum? hversu brádum mun-
ud þér ecki standa frammi fyrir þeim for-
dæmda Jesú, og vér munum upphefjast
vid hans hlid, þegar þér verdid fordæmd-
ir til eilífrar hádúngar. Jesú ríki er ecki
af þessum heimi. Látum Kónga og kappa
leita sér vegsemdar med inntøku landa og
ríkja; látum þá audmýkja hina hofmód-
ugu, og útbreida ógnanir og fordjørfun í
kríngum sig; vor Kóngur er allra manna
velgjørari, hans hrósun er ad gjøra vel,
og ad gjøra øll jardarinnar lend lucku leg;
í hans ríki er óhult rósemi. Jesú ríki er
ecki af þessum heimi. Þessi jørd med øllu
hennar ríkidæmi og sýnilegu lucku, er of

fátæk til ad umbuna einum Jesú undirsáta; hvad er allt þad, sem hún gétur géfid oss, á moti þvi, sem vér væntum oss í hinum heimi. Um þétta géfur vor trú oss óræka fullvissu; en þvi hegum vér oss þá ecki samsvarandi þessari trú? sé Jesú riki, hvers undirsátar vér erum, ecki af þessum heimi, þvi er þá vort hjarta eñ svo fast bundid vid þessa jørd? þvi gjøra þá litilvægar þjáningar oss modlausa? þvi hræduinst vér þá, sem deyda likamañ, en kuña ecki ad lifláta sálina? þvi képpumst vér med svo stórri laungun eptir rikdomi þeim, sem heimurinn máské býdur oss? þvi skélfumst vér þá svo mjøg fyrir daudanum, dóminum og eilifdiñi? mundum vér þañig ad fara, værum vér þar um fulltrúa, ad Jesú riki ecki væri af þessum heimi? hverju egum vér, hverju gétum vér til þessa svarad, án þess sjálfir ad blygdast? vér erum ecki ágvardadir fyrir þeña heim; vér vitum, ad hiñ komandi heimur er sá, til hvers vér egum ad gjøra oss hæfa, hvern vér elska egum og meta øllu framar; en vort stundlega siñada hjarta sviptir trú vora krapti þeim, er hún sýna á; á þessu augnabliki fáum ver fundid, hversu ýfrid veikt vort hjarta er; vér sjáum med

hvilíkri djörfúng þú, o! Jesú! vitnadir fyrir Pílatusar Dómstóli, þó ad þú vissir, ad sú játníng mundi olla þér nýrrar misþyrmíngar; þegar vér viljum heita þíns ríkis undirsátar, erum vér einnig skuldbundnir ad vidurkéña þig fyrir moñum. Vér egum ætíd og allstadar ad vidurkéña þig, til hvers nafus vér skírdir erum, þig, sem géfid hefir oss sjálfann þig til egindóms, og í hvers ríki vèr lifum. En hvad veika finnum vér oss ecki til æfingar þessarar skyldu, ef vér yrdum krafdir til, ad strída fyrir Jesú ríki, ef eiñ domari edur vantrúadur vildi spyrja oss, hvern í sinn stad; ertú einn af þess krossfesta Jesú undirsátum? mundum vér þá djörfúng hafa til ad svara: já! eg er hans þegn; eg er til þess fæddur og endurleystur, ad eg skuli bera vitni sannleikanum. Qvída megum vér því, ef svo ástædi, ad vér mundum fyrr öllu afneita, enn missa fyrir þá skuld luccu vora, metord edur líf; vér mundum álíta Kóngsins náð, hinna vísu samþycki, ellegar ábata-von nægilega umbun fyrir missir sálu vorrar. En þó ad vér fengjum nú þetta skadlausa endurgjald um stundar-sakir, hvad mun þó þá af oss verda, þegar öll heimsins ríki og þeirra

